þu riettlatr siert i þinum rędū ꝛ yfirer viñer nęr Psal. cx
þu dęmizt Psal. li

Eñ er ꝥ s° /at vort rangląti/prise gudz riett/
ląti/huad skulu vier seigia/er gud þa ranglatur/
þott hñ leggi reide a ꝥ (nu tala eg epter plag sidū
mañа) fiarlęgt sie þui? Huernen skylldi gud el/
ligar heimiñ dęma þui ef gudz sañleikr verdr fy/
rer mina lygn vegligre til hñs dyrdar huar fyrer
skylldi eg þa epter ꝥ sē añ^v syndbrotz madr dęm/
dr verda/ ꝛ mycklu framar s° breyta(sē illa ver
dr till vor talat) ꝛ s° sem sumer seigia/ ꝥ vier
seigiū/giorū illt/s° at gott epter komi huerra fy/
rer dęming er riettlig.

Hūad beru vier þa/af̃ þm̃? allz ecki/ þuiat vier
hofū adr vtuisat będi gydinga ꝛ gricke alla vnder
synd vera/epter þui sem skrifat er/at eigi sie sa
nockr sem riettuis er/ ꝛ ecki eiñ/ ꝛ eige sa sem skyn/
ugr sie/ ꝛ einge sa er at gudi leite aller eru þr fra
hneiger vordner/ ꝛ lika aller o nyter giorder ꝛ ein/
ge er sa sē gott giorir/ ꝛ eigi eiñ/ þra barcki er o/
pin grof/ ꝛ med sinū tungū hantiera þr suiksamli
ga/hoggorma eitr er vnder þra raurū/ ꝛ muñr
þra/fullr af boluan ꝛ beiskleika/ ꝛ fętr þra fliо Psal. x
ter til blodz vthellingar i þra vegū er eymd ꝛ hu/ Psal.
gar angr/ ꝛ fridarins gotū þeckia þr eigi/ ꝛ eigi er Psal. x
þar nockr gudz otti fyre þra augum. Pro. i

Eñ vier vitum huat logmalit seiger/ ꝥ seiger Esa. lix
þm̃ sem vnder logmalino eru/s° at allra muñur Psal.
verdi til byrgdr/ ꝛ heimriñ allr vid gud sakadr/ xxxv
fyrer þui at eckert holld/af logmalsins verckū/ge
tr fyrer hm̃ riett latt verit/ þuiat fyrer logmalit
kemr eigi vtan vidr keñing syndariñar.

Eñ nu er an Logmalsins gudz riettląti opin





berat/⁊ ſaḿ propuat pyrer vitneſ burd logmalſinſ ⁊ ſpam̄añana/eñ eg tala vm ꝥ rittlæti ſē pyre gu di duger huert at kemr pyrer truna a Jeſū chriſta til allra ⁊ ypuer alla þa/ſē trua/ Þui hier er eingē greinar/ munr/aller ſaman eru þr ſynduger ⁊ þm er ſkortr a þre hroſan ſē þr attu at gudi at hapa/ ⁊ verda s° vt ap hñſ nad an verd ſkulldanae riett later/pyrer þa endr lauſn ſem vordin er pyre Jeſū chriſtū/huern gud ſkickadi til porlikunar manz py rer truna i hñſ blodi/til auiſing° þſſ riettlætiſ ſē py rer hm̄ er pullt/i hueriu hñ pyrer gepr ſyndirnar/ þær adr eru vmlidnar/ vnder þre gudligre folin mædi ſē hñ hapdi/ ꝥ hñ a þſſm tima a viſadi þat riettlæti ſē pyrer hm̄ er pullt vpp a ꝥ at hñ ſie alle ina riettlatr ⁊ giore þañ riettlatañ/ſē þr° tru° er/ a

Huar er nu þin hroſan/er hñe lokit/(Jeſū kriſtū pyrer huert logmal / pyrer verckaña logmal/ecki s° helldr pyrer truariñar/logmal

Þuiat vier holldū mañiñ riettlætazt an logmal ſins vercka/ pyre truna eda er hñ alleinazta gud gydinga/er hñ ⁊ eigi gud heidiña maña atuiſu er hñ ⁊ gud heidiña þioda/nu mz þui at ꝥ er eiñ gud ſa er vmſkurniña riettlæter ap truñe/⁊ ypuer hu dina pyrer truna/huerſu mundr briotū vier þa log malit pyre truna/piarre ſie þui/helldr vppriettū vier logmalit

Fiordi Capitule



uat ſeigiū vier þa ap podr vorū Abra hā/ ꝥ hñ hapi pūdit epter holldinu/ ꝥ ſeigium vier/ep Abraham er ap verc kunū riettlatr þa heper hñ lopſtir/eñ ei

Gen.xv gi hia gudi/ þui huat ſeiger ritningin Abrahā trudi gudi ⁊ ꝥ er hm̄ reiknat til riettlætiſ eñ þm̄ ſē mz verckin pærzt verda launiñ eigi vt ap nadiñe til reiknut/ helldr epter verd ſkulldan/ [eñ

hm̄ at ſoñu ſē eigi vm geingr vreckin/ eñ truer a þañ
ſē rietlęter ranglatañ/ þīn verdr ſin trua reiknut Pſal. xx
til riettlętis/ epter þui moti sem Dauid ſeiger/ ꝥ
par ſęldin ſie alleinazta þſſ manz/ hueriū gud til
reiknar riettlętid/an til logu verckaña sᵒ ſem hm̄
ſeiger/at þr ſie sęler hueriū ſinᵛ ranglętingar eru
fyrer gefnᵛ/⁊ hueriū ſinar ſynder eru huldᵛ ſęll
er sa madr hueriū gud til reicknar ecki ſyndina
Nu þſſi farſęld ſnertr hun einazta vmſkurnina
eda eirneñ lika yfuer hudina/ þui vier hliotū at
ſeigia/ ꝥ Abraham ſie ſin trua til rietlętis reiknut
eñ huort er hun hm̄ þa til reiknut i vmſkurniñe
eda i yfuer hudiñe/an efua/ eigi i vm ſkurniñe /
helldr i yfuer hudiñe/eñ ꝥ teikn vmſkurnariñᵛ mz
tok hm̄ til merckis þſſ riettlętis sem kemr fyre tru-
na hueria hm̄ hafdi i yfuer hudiñe/sᵒ at hm̄ yrdi
⁊ fader allra truadra i yfuer hudiñe/sᵒ at þim yr-
di ⁊ ſlickt reiknat til riettlętis/ ⁊ ꝥ at hm̄ yrdi fader
vmſkurnariñar/eigi einazta þeirra ſē af vmſkur-
dar kyne eru helldr/iafn vel ⁊ þra ſē ganga i fot
ſporū þrᵛ truar ſē var i yfuer hud fodr vorſ Abra
Þat fyre heitid ꝥ hm̄ ſkylldi vera rer (hamſ
alldariñar erfuinge/ſkiedi eigi til Abrahams/ edr
hñſ ſędis/fyre logmalit/ helldr fyrer truariñar
riettlęti þui ef þr af logmalino eru erfuingiar/
þa er truan einſkis verd ⁊ fyrer heitid o nytt giort
af þui at logmalit afrekar eigi añat eñ reidi þui
huar logmalit er ecki/ þar er ⁊ eingin yfuer trod-
ning/ fyrer þſſ ſaker hlytr riettlętid af truñe at ko-
ma/sᵒ at ꝥ ſie ut af nadiñe ⁊ ꝥ fyrer heit bliue
ſtodugt ollu ſędi/ eigi einazta þui sem vnder
logmalino er/helldr ⁊ þui ſē er Abrahamſ truar/
huer at er allra vor fader/ epter þui ſem ſkri-
fat er/at þig hefi eg settañ til faudr margra




Gene. xvij þioda fyrer gudi/ hueriũ þu truder/ ⁊ sa er dauda lifgar/ ⁊ kall~ ꝥ sẽ ecki er/ lika sem ꝥ huat at er

Og hñ trudi vppa von þar eingin von var þo a/ ꝥ at hñ yrdi fader margra heidiña þioda/ epter þui sem til hans er sagt/ so skal þitt sædi verda sẽ stiornr himins ⁊ siafuar sandr/ eñ hñ vard eigi veykr i truñe/ gaf ⁊ eigi vackt at sinum eigen likama þiñ daiñ var/ af þui at hñ var at mestu hundrat vetra/ ⁊ eigi dains kuidar Saru/ þui hñ efuadi ecki gudz fyrer heit/ vegna vantruar helldr vard hñ styrkr i truñe/ gefandi gudi dyrdiña/ vitandi ꝥ fyrer fullañ sañ/ at hueriu sem gud lofadi/ ꝥ var hñ mattugr at giora/ ⁊ fyrer þui var hm̃ ꝥ reiknat til riettlætis

Eñ ꝥ er eigi einazta skrifat fyrer hans saker ꝥ sie hm̃ til reiknat/ helldr fyrer vorar saker/ þm̃ ꝥ skal til reiknat verda/ ef vier truum a þañ sem drottiñ vorn Jesum Krist vpp vackti af dauda/ sa er fyrer vor~ synder var yfuer gefiñ/ ⁊ fyrer vors riett lætis saker vpp vacktr

## Fimte capitule

Af þui vier erum nu rietlætter fyrer truna/ þa hofum vier frid hia gudi/ fyrer Drottiñ vorn Jesum Kristum/ fyrer huern at vier hofum ⁊ til gongu i truñe til þessarar nad~ þar vier iñe stondũ ⁊ hrosum oss i voniñe þrar til komandi dyrd~ er gud mun gefa/ eñ eigi einazta ꝥ/ helldr hrosu vier oss eirnen lika i hormungunũ af þui vier vitũ ꝥ hormung aflar þolin mædi eñ þolinmædi aflar raunar eñ raun aflar von~ / eñ vonin lætr eigi at hneyckslũ verda/ þui at gudz kærleiki er vt helltr i vor hiortũ fyrer heilagañ anda þñ oss er veittur

Huiat

Þuiat þa vier vorū eñ breyſkliger epter tidiñe hefer Kriſtr fyre oſſ ranglata dait/ eñ nu deyr varla nockr fyrer riettlatañ ⁊ ma vera at ſa ſie trautt ſem fyre godañ dirfbizt at deyia/ fyrer ꝥ priſadi gud ſiñ kærleika vidr oſſ i þui at Kriſtr hefer fyrer oſſ dait/ þa þegar vier vorū ſynduger/ fyrer ꝥ verdum vier ⁊ mycklu meir frelſader af reidiñe fyrer ſialfuañ hañ af þui at vier erum riettlætter i hans blodi

Þui ef vier erum nu gudi forlickter fyre hñs ſonar dauda/ þa vier vorū eñ ouiner/ mycklu meir verdum vier frelſader fyrer hñs lif ſem forlickter eru/ eñ eigi alleinazta ꝥtta : helldr ꝥ/ at vier hroſum oſſ ⁊ i gudi fyre Drottiñ vorn Jeſum Kriſt/ fyrer huern at vier hofum forlikunina mz tekit /

Fyre þuiat lika ſem ſyndin er fyre eiñ mañ komin i þnañ heim/ ⁊ daudiñ fyrer ſyndina/ ⁊ ſo er daudiñ til allra maña iñ ſmogiñ/ af þui at aller hafa ſyndgazt/ þuiat ſyndin var i heimenū / allt til logmalſins/ eñ huar ecki er logmalit/ þar verdr ⁊ ecki ſyndiñe ſkeytt/ helldr Drottnadi daudiñ fra adam allt til Moyſen/ ⁊ einnen yfuer þm̄/ ſem ecki hofdu ſyndgazt med þuilikre yfuertrodzlu ſem Adam/ huer at er ein fyreinynd þſſ ſem koma atti

Eñ ꝥ er eigi ſo fallit med giofiñe ſē med ſyndiñe/ þui ef marger eru dauder fyre ſaker eins manz ſyndar/ þa gnæfuer þo mycklu meir gudz nad ⁊ giafuer yfuer fleirum/ fyrer eins manz nad Jeſu Chriſti

Og giofin er eigi einazta yfuer eiñe ſynd/ lika ſem at er fyre eiñ ſyndugañ/ eilif ſynd allra fordi arf/ þuiat ſo ſē doms a fellit er komit af eins

mañs

manz ſynd til fordꜹmingar/lika er giofin fyrer eins manz riettlꜹti/af morgū ſyndū til riettlꜹtinogar gefuin/ þui ef daudiñ riker vegna eiñrar ſyndar fyrer eiñ/ myckl u meir munu þr sem audlazt gnꜹgd nadariñar ꝛ giof riettlꜹtiſins rikia i lifueno fyre eiñ/Jeſum Chriſt

Lika sem at fordꜹmingin er komin fyre eins manz ſynd/yfuer alla meñ/ s° er ꝛ komit fyrer eins riettlꜹti/lifs riettlꜹtid yfuer alla meñ/ þuiat lika ſem fyrer eins manz o hlydne eru marger ſynduger vordner/s° verda ꝛ fyre eins hlydne marger riettlater

Eñ logmalit er þo iafn framt iñ komit/ s° at ſyndin ſkylldi yfuer gnꜹfa/eñ huar ſyndin gnꜹfir þar yfuer gnꜹfuer Nadin/eñ myckl u framar/at med ſama hꜹtti sem ſyndiñ rickti til daudans/ s° lika riker Nadin fyre riettlꜹtid til eilifs lifs/ fyrer Jeſum Chriſt.

Siette Capitule

HVat eigu vier hier til at ſegia/ſkulu vier þa i ſyndiñe blifua s° at nadin meige yfuer gnꜹfa/fiarre er þui/ huernē ſkylldū vier þ vilia at lifa i ſyndiñe epter þ vier erū heñe fra deydder / Vite þier eigi/at aller vier sē ſkirder eru i Jeſu chriſto þ vier erū i hñs dauda ſkirder/ þui erū vier ꝛ lika mz hm̄ grefttrader fyre ſkirnina/i daudañ/vpp a þ lika sē kriſtr er vpp vakiñ af dauda fyrer dyrd fodrſins/lika s° ſkulu vier ganga i nyungu lifdagaña/ þui fyrſt vier verdū hm̄ sāplantader i epter likianligū dauda/ s° verdū vier hm̄ ꝛ liker i vpp riſuñe/med þui vier vitū þ at vor gamle madr/er med hm̄ kroſſfeſtr/s° at af ſkꜹfizt likami ſyndariñar/ at epter þ þionudu vꜹr eigi ſyndiñe/ þuiat

huer sem deyddr er/hn̄ er riettlætr af syndiñe

Eñ fyrſt vier erū mz kriſte deydder/þa truum vier/ ꝥ vier munū ⁊ med hm̄ lifa/ eñ vier vitū ꝥ kriſtr er vpp vakiñ af dauda/ og deyr eigi meir/ Daudiñ mun ⁊ eigi meir Drottna yfuer hm̄/ þui ꝥ hn̄ do/ ꝥ er hn̄ eitt ſiñ syndiñe daiñ/eñ ꝥ hn̄ lifer ꝥ lifuer hn̄ gudi/ s° ⁊ lika þier ſkulut hallda ydr ſialfua þar fyrer/ at þier ſieut ⁊ deydder fra ſyndiñe/eñ lifuit gudi i drottne vorū Jeſū kriſto fyre þui latid nu ſyndina eigi drottna i ydrū daud ligū likama/s° at þier ſieut hm̄ hlyduger i hn̄ſ girn dū/ ⁊ liaet eigi ydra limu ſyndiñe til ranglætis her klæda/Helldr liait ſialfa ydr gudi/lika sē af dau da vpp lifnada/ ⁊ ydra limu gudi til riettlætis Herſkruda /þuiat ſyndin fær eigi Drottnat yfuer ydr/af þui at þier erut eigi vnder logmalino/ Helldr vnder nadiñe.

Huernen þa? ſkulu vier þui ſynder drygia ꝥ vier erū eigi vnder logmalino/ eñ erū vnder Nadiñe/ fiarre ſie ꝥ/eda vite þier eigi at hueriū sē þier ge fit ydr til þionuſtu mañа vnder hlydne Hn̄s þio nar eru þier/ hueriū þier hlyduger erut/huort ꝥ er ſyndiñe til daudans/edr hlydniñe til riettlætis/eñ gudi ſie þacker/ꝥ þier vorut ſyndariñar þionuſtu meñ/ eñ nu hlyduger vordner af hiarta þre lær domſius i mynd/sē þier erut til gefner/ þui fyrſt þier vrdut frelſader af ſyndiñe/ þa eru þier vord ner riettlætiſins þionuſtu meñ

Eg ✠ hlyt likamliga hier af at ſeigia/ fy rer yduarſ holldz breyſkleika ſaker/ þui lika sem þier hafit ydra limu lied til at þiona o hrein leikanum / i fra odru ranglæti i añat / Lika svo ſkulu þier nu lia ydra limu til at þiona riet tlætino/ til helgunar þui þa þier vorut þionuſtu vij. Sunnu dag.

meñ ſyndarinar/ voru þier fri fyrer riettlætino
hüern auogxt hofdu þier þañ tima/ þañ þier ſka
mizt ydar nu af/ þuiat endalok fra hluta er dau
diñ/ eñ nu þier frelſader af ſyndiñe/ ⁊ vordner
gudz þionuſtu meñ hafi þier ydnarn auogxt til
helgunar/ eñ at enda lokum eiligt lif þuiat verd
launin ſyndariñar er daudiñ/ eñ gudz giof er eil
ift lif i Drottne vorum Jeſu Chriſto

Siounde Capitule

Viti þier ecki brædr/ (þui vid þa tala eg
ſem logmalit vita) ꝥ at logmalit Drott
nar yfer mañinū/ q̄ ſo leinge hn̄ lifuer
þuiat ſu kona ſem mañe er vnder ge
fin hū er at mañinū lifanda/ logmali
no vnder vorpin/ eñ ef hñar madr deyr/ þa er hū
laus af þui logmali ſē mañiñ a hrærir nu ef hun
er hia odrū at mañinū lifanda/ verdr hun horko
na kollut/ eñ ef hñar madr deyr þa er hun frelſut
af logmalino/ ꝥ mañiñ a hrærir/ ſo at hun er ei
gi horkona/ þo hun ſie hia odrū mañe.

Liks ſo eru þier brædr miner deydder laug
malino/ fyrer Kriſtz likama ſo at þier ſieut hia
odrum/ einkum hia þm/ ſem af dauda er vpp va
kiñ vpp a ꝥ vier færū gudi auogxt/ þui þa vier
vorum i holldino/ voru ſyndſamligar girnder
volldugar/ (þær ſier hreyfdu vpp fyre logmal
it) i vorum limum daudanū a vogxt at færa/ eñ
nu eru vier lauſer af logmalino/ ⁊ fra þui deyd
der ſem oſſ hiellt hertekna/ ſo at vier þionū i ny
ungu andanſ/ eñ ecki i fornre veru bokſtafſ ſinſ

Huad ſkulu vier ſeigia? er logmalit ſynd/ fiar
re er þui/ helldr ꝥ eg keñer ecki ſyndina/ nema fyr
er logmalit/ þui eg viſſa eigi huad girnd væri ef

logmalit

logmalit heꝼdi ecki sagt/ei skalltu girnazt/eñ er syn
din tok til eꝼne aꝼ bodoꝛdino ⁊ ol vpp i mier allz
hattadar girnder/ ꝥat an logmalsins var synden
daud/eñ eg liꝼda ꝼoꝛdum an logmals/ ⁊ er bodoꝛ
dit kom/endꝛ liꝼnadi syndin/eñ eg deyda/ ⁊ ꝥ skie
di s° at ꝥ bodoꝛd vard mier at dauda/sem mier
var til liꝼs geꝼit/ þuiat syndin tok til eꝼne aꝼ bo
doꝛdino/tǽldi mig ⁊ deyddi ꝼyre ꝥ sama bodoꝛd
Logmalit sialꝼt er þo señeliga heilagt/ ⁊ bodoꝛ
dit er ⁊ heilagt/gott ⁊ riett visſ
Er þa ꝥ sẽ gott er/mier at dauda vordit/ꝼiarre er
þui/helldꝛ s° /ꝥ syndin auglystiz ꝥ hũ vǽri synd
⁊ ꝥ hũ heꝼdi mier ꝼyꝛe hid goda dauda aꝼlat/s°
at syndin yꝛdi yꝼuer mata syndsõ ꝼyre bodoꝛdit/
ꝥat vier vitũ ꝥ at logmalit er andligt/ eñ eg em
kiotligꝛ/ vnder syndina selldꝛ/aꝼ þui eg veit eigi
huat eg giori þuiat eg gioꝛi eigi huat eg vil/helldꝛ
ꝥ eg hata ꝥ gioꝛi eg/eñ ꝼyrst eg giori ꝥ huat eg vil
eigi sam ꝥ ycki eg ꝥ /at logmalit sie gott/s° giori eg
nu eigi ꝥ sama/helldꝛ su synd sem i mier bygger
þui eg veit at i mier ꝥ er i minu holldi bygger ein
giñ godi/ viliañ heꝼi eg eñ at ꝼull kõna hid goda
ꝼiñ eg eigi/ þuiat ꝥ goda sẽ eg vil giori eg eigi hell
dꝛ ꝥ vonda/huat eg vil eigi/ ꝥ gioꝛi eg/ eñ ꝼyrst
eg gioꝛi ꝥ huat eg vil eigi/þa gioꝛi eg eigi ꝥ sama
helldꝛ su synd sem i mier bygger

Þui ꝼiñ eg i mier ꝥ logmal þa eg vil gioꝛa hid
goda loder vid mig ꝥ vonda/þuiat mig lyster til
gudz logmals epter hinũ iñra mañinũ / eñ eg sie
þo añat log mal i minũ limũ ꝥ er i mot strider mi
nu hugskotz logmali/ ⁊ ꝼǽrir mig herleiddañ i
syndariñar logmal huert at er i minum limum eg
vesall madꝛ huer mun ꝼrelsa mig/aꝼ likama ꝥss

daudans/eg þacka gudi fyre Jeſū chriſtū Drott
iñ vorn/ſo þiona eg nu i minu hugſkoti gudz log
mali/eñ i holldinu ſyndariñar logmali

Attandi Capitule


vo er nu eckert fordæmiligt a þm ſē i
Kriſto Jeſu at eru/ þr ſē eigi ganga ep
ter holl dino/helldr epter andanū/ þat
logmal þſſ anda ſē lifgar i Kriſto Je
ſu/hefer giort mig frialſan/af logma
li ſyndariñ ꝛ daudans/ þui huat logmalino vͬ o
moguligt (mz þui þ kreinckizt fyrer holldit) þ elf
di gud/ꝛ ſēdi ſiñ ſon i liking ſyndugs holldz ꝛ for
dæmdi ſyndina i holldino fyrer ſyndina/ſo at riett
lætingin ſē af logmalino heimtizt vppfylldizt i oſſ
ſē eigi ganga epter holldino/helldr epter andanū.

Þuiat þr ſē likamliger eru/ þr rækta þ huad
holldzinſ er/eñ hiner ſē andliger eru/ rækia þ ſem
andligt er/þui holldzins fyſt er daudi/eñ andar
ins vilie er lif ꝛ fridr/ þ fyrer er holldzins girnd
fiandſkapr gegn gudi/af þui at þ er ecki gudz log
mali vnder vorpit/ þ fær þſſ ꝛ eigi orkat/þui þr
ſē likamlger eru/ geta eigi gudi þocknazt

Eñ þier erut ecki likamliger/helldr andliger ef
gudz andi bygger añars i ydr ꝛ hver hañ hefer
eigi Kriſtz anda/ ſa er eigi hans/eñ ef kriſtr er
mz ydr/ þa er likamiñ at ſoñu daudr ſyndariñar
vegna/eñ andiñ er lifit fyrer riettlætingariñar ſa
ker/ þui ef hñs andi ſem Jeſum vpp vackti af
dauda byggir i ydr/ þa mun ꝛ ſa ſami ſem Je
ſum Kriſtū vppuackti af dauda/lifga ꝛ ydra dau
dligu likame/vegna þſſ at hñs andi bygger i ydr.

✠ viđ ſu Þar ✠ fyre erum vier kærer brædr nu eigi
ñu dag holldzins ſkulldu nautar/ þ vier eigū epter holl

dino

dino at lifa/ þui ef þier lifit epter holldino
munu þier deyia/ eñ ef þier deydit fyrer an-
dañ holldzins giorder/ munu þier lifa/ þui ꝥr sem
af gudz anda drifner verda ꝥr eru gudz syner/
þui þier hafit eigi medtekit þrælkunar anda/ so
dier kurfit nu aptr at vgga vm ydr/ Helldr hafi
þier medtekit sonarligañ anda/ fyrer huern vier
kollũ Abba elskanligr fader/ Sa sami andi/ber
vitnisburd med vorũ anda ꝥ vier erũ gudz syner
eñ fyrst vier erũ syner/ so erũ vier ⁊ erfuingiar/
Señeliga gudz erfuingiar/ ⁊ sam arfuar kristz/
ef vier lidũ añars medr hm̃/ vpp a ꝥ at vier ver-
dũ eirnen med hm̃ vpp hafner til dyrdariñar *

Þuiat * eg helld ꝥ þar fyrer/at motlæting * siñ su
þessara tima/ sie ecki verd til þrar dyrdar sem vid ñu dag,
oss mun opinberut verda/ þuiat a hyggiu samligt
epter bid skepnuñar stundar epter vpp birtingu
gudz barna med þuiþo at skepnan er hiegoma-
nũ vnder gefin/ an hñar vilia/ Helldr fyrer hñs
saker sẽ hana hefer vnder lagt/vpp a vonina þui
at sialf skepnan mun frelsut verda af þrælkan
falluallttar veru/til dyrdarligs frelsis gudz bar
na/ þui vier vitũ/ ꝥ alla skepnu forleinger/ ⁊ ber
sott med oss/allt til ꝥss tima

Eigi alleinasta hun helldr vier sialfuer sẽ o-
fũ andarins frumtauk berũ mod i sialfũ oss ep
ter ꝥre arfleifd/ ⁊ væntum epter lausn vors lika-
ma * Señeliga erũ vier hialpliger vordner i vo
niñe/ þui su von sem siedzt er eigi von/eda huer-
su kuñunr vier ꝥss at vona sem vier siaũ/eñ ef vi-
er vonum a þat sem vier siaum ecki/ þa bidum
vier þess fyrer þolin mædi.

So

So hialpar ⁊ andiñ eirnen lika vorũ breysklteik
þat vier vitũ ecki huad vier skulũ bidia/ sẽ þo byriadi/ Helldr bidr sa andi sialfr fyrer oss med o
vm rœdanligri anduarpan/ eñ hñ sem hiortun ran
sakar veit huat andarins meining er/ þat hñ bidr
fyrer heilogũ/ epter þui ed gudi hagar ✠ Eñ vier
vitũ/ at þm̃/ sem gud elska tekzt allt til betranar/
einkum þm̃ sem epter fyrehyggiuñe kallader eru
þat hueria hñ hefer adr fyre hugada/ þa hefuer
hñ ⁊ til skickat/ ꝥ þr skylldu verda samliker hñs
sonar/ Jmynd/ so at hñ sialfr sie frum getningr
medal margra brœdra/ Eñ hueria hñ hefer fyrer
hugada/ þa hefer hñ ⁊ kallat/ eñ hueria hñ hefer
kallat þa hefer hñ ⁊ riettlata giort/ eñ hueria hñ
hefer riettlœtta/ þa hefer hñ ⁊ dyrdarliga giort

Huad eigũ vier til at seigia/ er gud fyre oss
huer er þa a moti oss/ huer ⁊ eigi þyrmdi sinum
eigenligũ syne/ Helldr gaf hñ vt fyrer oss alla/ huernen skylldi hñ þa eigi veita oss alla hluti med hm̃
Huer vill nu þa a saka gudz vtualda meñ/ gud er
sa sem riettlœter/ huer er hñ sem þa fordœmer
Kristr er hñ sem dait hefr/ ⁊ eirnen sa sẽ vpp
vacktr er/ Huer at er til hœgre handar gudi ⁊ bidr
fyrer oss.

Huer vill þa skilia fra gudz elsku? hormung
edr motlœti ofsokn eda hungr/ volad edr haski/ so
sẽ at skrifat er/ ꝥ /at fyre þig verdũ vier deyder allan dag ⁊ erũ reiknader sem saudr til draps
œtladr señeliga berũ vier langt af i þssu ollu vegna hñs er oss elskadi/ þuiat eg em þss full oruggr
at huorki daudi nie lif /einglar nie hofdingsskietter/ eda yfuer valld/ ⁊ eigi hid nalœga nie hid o
Psal. xliij
komna/ eigi hœd/ eda dypt nie nockur oñr skepna

fœr

þęr oss skilit fra gudzkęr leika/huer at er i Drott
ne vorum Jesu Kristo *

Niunde Capitule



Eg seigi sanleik i Christo Jesu ꝛ lyg eigi
þess mier ber vitne min samuitzka i hei
logum anda/at eg hefi storan harm
ꝛ iduliga hrygd i minu hiarta/eg hefi
ꝛ ęskt mier þess at vera boluadr af
kriste fyrer mina brędr/huerier at eru miner frędn
dr epter holldino/sem eru af Jrael/ huerium at
leifdin til heyrir ꝛ s° vegsomin/sattmalin ꝛ logmę
lit/gudz þionustan ꝛ fyre heitid/ huerra fedr at
eru ꝛ þr sem kristr er vt af komin epter holldino/
sa sem at er gud yfer ollū hlutum blezadr vm
allder Amen

En eg tala eigi þetta til þess at gudz ord skylldu
þo fyrer nidr falla/þui ꝥ eru eigi allt Jraels men
sem af Jrael eru/ ꝛ ecki aller þr syner sem af Abra Gene. xxi.
hams sędi eru/helldr skal þier i Jsaac ꝥ sędi ne
fnt verda/ꝥ er/at þr eru ecki gudz born sem epter
holldino eru born/helldr verda þr sem eru fyrer
heitzins born fyrer sad reiknader/ þui at þetta er Gen. xxv.
fyrer heitz ordt/þo hn seiger/a þm tima man eg
koma/ ꝛ þa skal Sara son hafa

Þetta er en eigi at eins med þm/helldr ꝛ þa Re
becca vard þungut af fodr vorū Ysaac/ adr en
bornin voru fędd/ ꝛ þau hofdu huorki giort gott
nie vont/s° at gudz fyrer hyggia stodug stędi ep
ter vt valninguñe/ þat hñe var til sagt eigi vt af
verdskulldan verckana helldr vt af nad ęskiarans
s° þat hin meire skylldi þiona hinum mina/epter Mal. i.
þui sē skrifat star Jacob elskadi eg/en Esau hatf
di eg at hatri

Huat eigu vier hier til at seigia/er gud rangla-
Exo. xxxiij ter/langt fra þui/þat hn̄ seiger til Moysen/huern
eg nad er þm em eg nadugr/ ꝛ hueriū eg miſkuña
Exo. ix þm em eg miſkuñſamr/ þui er þ eigi komit vnder
nockrs vilia edr til hlaupi/helldr vnder gudz miſk
uñſéd/ þat ritningin ſeiger til Pharao/til þſſ vpp
vackta eg þig/at eg ſynda a þier miñ krapt/svo
miſkuñar hn̄ nu þm̄/hn̄ vill ꝛ forherdir þn̄ huern
hn̄ vill

Þu ſeiger so til min/Hueria ſkulld gefr hn̄ oſſ
þa? Huer fær hn̄s vilia i moti ſtadit/Ja godr ma
dr huer ertu þa/ef þu villt þreyta audſuor vid
gud/ſeiger nockut efnit svo til ſmidſins/huar fy-
rer giorder þu mig svo eda hefer ecki leir kera
ſmidr i valld til vt af ſomū leir mo/at giora añat
kerit til heidrs/en̄ añat til ſmanar/ þui þa gud vill
di audſyna ſina reide ꝛ kuñgiora ſina mackt/ He-
fer hn̄ med mikille þolin mædi vnlidit keren rei-
diñar/ſem buin eru til fordæmingar/vpp a þ hn̄
ſyndi rikdom ſiñar dyrdar a kerū miſkuñariñar/
þau hn̄ hefer vt reitt til dyrdariñar/ ꝛ þau hn̄ he-
fer kallat/einkañliga oſſ/eigi einazta þa ſem vt af
Osee ij gydingū eru/helldr iafn vel þa ſem af Heidingiū
eru/svo ſē hn̄ ſeiger fyrer Osea ſpamañ/Eg mū
þ kalla mitt folk/ ſē ecki var mitt folk/ ꝛ þa mi-
na vñuſtu sem ecki var min vñazta / ꝛ þ mun
vera i þm̄ ſtad/huar til þra var ſagt/ þier erut ec-
ki mitt folk / ſkulu þr kallader verda born gudz
lifanda

En Eſaias kallar yfuer Irael/ þott tala/Iraels
ſona yrdi sem ſiafuar ſandr/þa mundi þo þ eina
sem afgangriñ er holpit verda/ þuiat ſina rædu
mun hañ fyre þm ſkytta/ ꝛ þo algiora til riettlæ-

sis af

tis/af þui at drottiñ mun forstockott ord giora
a iordu/ ⁊ so sē Esaias sagdi adr fyrre/ Nema ef Esa.xxviij
drottiñ Zabaot hefdi oss sędi yfer verlatid/ þa vę
ruñ vier vordner sem Sodoma ⁊ lika sē Gomorra.

Huat eigu vier nu at seigia? ꝥ eigu vier at seigia/
at þr Heidingi sē ecki hafa riettlętino epterfylgt
hafa riettlętid hōdlat/ eg seigi af þui riettlęti sē
vt af truñe kemr/ eñ Jrael hefer logmalsins riett
lęti epterfylgt/ ⁊ hefer þo ecki komizt til riettlęti Esa.xxviij
sins logmals/ huar fyrer/ ꝥ þr hafa eigi leitad
ꝥss vt af truñe/ helldr so sē vt af logmalsins ver
ckū ꝥ þr hafa rekit sig a þañ hindrunar stein/ ep⸗ (hindrun
ter þui sem skrifat er/ Siaeti at eg set i Sion/ Kristr rie
hindrūnar stein ⁊ hneycksl. nar hellu/ ⁊ huer hñ lęter an
truer a hañ/ sa skal ecki at hneyckslan verda ckana eñ
trua þr e

Tiunde capitule

Kęrer brędr señeliga er ꝥ osk mins hiar inz þui r
ta ⁊ gratlig bęn til gudz fyrer Jrael þr sig a h
at ꝥr hialpuduzt/ þui eg ber þm vitne hindra sig
at þr vandlęta vm gud/ eñ eige af sky alfua.
nsemd/ þuiat ꝥr þeckia eigi ꝥ riettlę⸗
ti sem gudz er/ ⁊ leita vid vpp at rietta sinar eigē⸗
ligar riettlętingar/ ⁊ eru so þui riettlęti sem gudz
er ecki vnder gefner/ þuiat enda lok logmalsins er
Kristr/ til riettlętis olluñ þm a hañ trua

Moyses skrifar vm ꝥ riettlęti sem kemr vt af
logmalino/ huer sa mañ/ sem ꝥ giorir/ hñ lifer Leui.xviij
þar iñe/ ef ꝥ riettlęti sem vt af truñe kemr seiger Deu.xxx
so/ Seig þu ecki i þinu hiarta/ huer vill vppstiga
i himiñiñ/ ꝥ er eigi añat eñ kristū af hędne ofañ
aptr at toga eda huer vill nidr stiga i vndr diupit

ꝥ er eigi annat enn. Kristum af dauda vpp apttr at
teygia/ enn huat seiger ritningin/ ordit er þier nær
einkum i þinum munne ⁊ i þinu hiarta

Þetta er truarinnar ord/huert vier predikum þui
ef þu vidr kenner Jesum med þinum munne/ ꝥ hann
sie Drottinn/ ⁊ truer i þinu hiarta ꝥ gud hafi hann
Andres vpp vakit af dauda/ þa muntu hialpazt ✱ Þat
Jesu nær vier truum af hiarta/verdum vier rettlater/⁊ þa
vier vidrkennum mz munninum verdum vier hialpli
Esa.xxviij. ger/þui huat seiger ritningin/at huer a hann truer/
sa mun eigi at hneyckslan verda

Þuiat einginn greinar munr er a millum gy
dingß ⁊ hins girska/af þui at einn er Drottinn allra/
rikr vt yfuer ollum/ þeim hann a kalla/ þui huer hann a
kallar nafn drottinnß sa mun holpinn verda/enn huer
nen skulu þr kalla a þann huern þr trua eigi/eda huer
nen skulu þr nu trua a þann af huerium þr hafa
eigi heyrt/ enn huernen skulu þr heyra an predikar
anna/eda huernen skulu þr nu predika nema þr
sie sender so sem skrifat er/ huersu frydiliger eru
fætr þra/sem fridinn boda ⁊ þra er boda hid goda/
Psa.lij. enn þr eru þo eigi aller gudz spiallino hlydúger
þui at Esaias seiger huer truer vorre predikan/ fyr
rer þui kemr truen vt af predikaninne enn predikunin
fyr er gudz ord/enn eg seigi/ hafa þr eige heyrt þ/
senneliga er þra hliomr vm oll lond vt geinginn ⁊ þra
Psal.xviij ord i allar heimsins alfr ✱

Enn eg seigi at Jrsael hefer þ eigi þeckt/J fyrst
Deu.xxxij. sem seiger Moyses/ eg mun esa ydr vpp til vand
lætingar yfuer þeim sem eckert folk er/⁊ yfuer skyn
Esa.lxv. laussre þiod mun eg eggia ydr til reidi/Enn Esaias er
in aldiarfr ⁊ seiger/eg em af þeim fundinn/sem eigi ha
fa mig leitad/ ⁊ þeim/auglystr sem eigi hafa at mier

mier

æ ſpurt/ Eñ til Jrael ſeiger hñ/allañ dag hefi eg Eſa. lxv.
minar hendr vt breitt til folks þeſſa er eigi vill trua
helldr mier i moti mælandi

Ellifte Cap.


vo ſeige eg nu/Huort hefer gud þa ſitt
folk fra ſier rekit/fiarre er þui/þuiat
eg em ꝛ Jraelſmadr/vt af Abrahams
ſædi/af kyne Beniamins/Gud hefer
ecki ſitt folk fra ſier rekit/ þat hñ hefer iij. Reg. x
adr fyrehugat eda vite þier eigi huat ritningin ſei
ger af Elia/huernen hñ bad fyre gudi i giegn Jr
ael ꝛ ſagdi/Drottiñ ſpameñ þina hafa þr i hel ſlei
git ꝛ þinū aulltorum vm vellt/eñ eg em eiñ epter
blifiñ/ ꝛ þr vm ſitia mitt lif/eñ huat ſeiger honū
gudligt andſuar/Sio þuſunder maña hefe eg la
tid mier yfuer blifa þr ſem eigi hafa beygt ſin
kne fyre Baal/ſo geingr þ ꝛ nu til a þeſſū timum
mz þm ſē vm fram eru blifner/epter vtualnin
gu nadariñar/Eñ fyrſt þ er vt af nadiñe ſkied/
ſo er verdſkulldaniñ eingen/añars væri nadin ein
gin nad/eñ er þ vt af verdſkulldaniñe/þa er nad
in eckert/elligar væri verdſkulldan eingē verdſkul

Huad er nu þa? þ Jrael epter leitadi/þ ſldan
hefer hun eige audlazt/eñ vtualningin audladizt
þ/eñ þr adrer er vm fram voru eru forblindader Eſe. vi.
epter þui ſem ſkrifat er/at gud gaf þm þñ þue
rudar anda/ ꝛ augu at þr ſia eige ꝛ eyru at þr hey
re eigi/allt til þeſſa dags David ſeiger ꝛ þra bord
lat þm verda at ſnoru/til fiotrunar ꝛ hneyckſla/
ꝛ þm til endrgialldz/forblinda ꝛ þra augu/ſo Pſal. lxviij
þr ſiae eigi/ꝛ beyg iafnan þra hrygg

Svo ſeige eg nu: hafa þr þar fyrerekit ſig a
at þr ſkylldu falla langt fra þui/ Helldr er vt af
þra brafan Heidingium heilſu giof vordin/ſo at

þr huettu þa til vandlætingar/ þui ef þra fall er heimſins audlegd ꝛ þra minkan heidiña maña rikdomr/ huersu miket meir væri ꝥ so ef þra fullnan þar væri/ vid yþr heidingia tala eg med þui at eg em poſtuli heidiña maña vil eg mitt embætti/ heldra/ ef eg gæta þa eirnhuernneiñ huatt þa sem mitt hollo eru til vandlætingar/ ꝛ nockra af þm hialp liga giort/ þui ef þra glatan er heimſins forlikun/ huat væri ꝥ añat/ eñ vier audludunzt lifit af daudũ/ þui ef ſneidirnar eru heilagar/ þa er ꝛ deigit heilagt/ ꝛ ef rotin er heilog þa eru ꝛ kuiſterner heilager

Þuiat ef nockrer af kuiſtunũ eru af brotner/ eñ þu sem vart villi vidſmiors vidr ert a millum þra iñ plantadr/ ꝛ vordiñ hlut takare þrar rotar ꝛ feitleike þſſ vidſmiors vidar/ fyrer þui ſkalltu eigi meta þig i giegn kuiſtanũ/ eñ ef þu metr þig i giegn þm/ þa mattu vita/ at þu ber eigi rotina/ helldr ber rotin þig/ þui þu ſeiger at kuiſterner eru þui af brotner/ at eg yrdi iñ plantadr/ ꝥ er ꝛ sañ talat/ fyrer vantruar saker eru þr af brotner/ eñ þu ſtendr fyrer truna/ vert þui eigi metnadr hell dr ottaſleiginn/ þui ef gud hefer ecki hyrmt natturligũ kuiſtũ/ verda ma at hñ hyrme þier eigi helldr

Þar fyrer/ Sia þu/ godgirne gudz ꝛ hardud Hardudina a þm sem fallner eru/ eñ godgirnina a þier/ ef þu ſtodugr blifr i godgirniñe/ elligar verdr þu ꝛ eirnen af hoggviñ/ ꝛ hiner adrer ef þeir blifa eigi i vantruñe þa verda þr iñ plantader / þat gud er mattugr til at rotſetia þa iñ aptr/ þui ef þu sem af natturu er villi vidſmorſ vidr/ ert a zſnidiñ/ ꝛ i mot natturuñe ert iñ plantadr a hid goda vidſmiors treid/ myklu fremar munu þeir

þa

þa sē epꝛ⁹ nattuꝛuñe eru/ıñplātazt sinū vidsiorf rid.
Eg vil eigi dylia fyrer ydꝛ goder bręðꝛ/ fn
añ leyndañ dom / s° at fier sieut eigi nietnadar
fuller/ med sialfum ydꝛ/ f blindleiki er i suman
snata Jrael yfuer falliñ/ þangat til at fylling hei
diñar þiod' er iñ kominñ/ ꝛ aull Jrael verdi s° hol   Esa. lix.
pen/ epter þui sem skrifat er/vt af Sion mun
koma sa sem frelsar ꝛ vm snyr o gud ligu at hę-
fi af Jacob/ ꝛ þssi er miñ sattmali vid þa/ nęr
eg burt tek fra synder/eg helld þa at soñu fyrer
o vine epter gudz spiallino fyrer ydꝛ' saker / eñ
epter vt valningūñe hefi eg fa kęra fyrer fedꝛa
ña saker

Gudz giafuer ꝛ kallan eru fss hattar at þęr
fa hñ eigi idꝛad/ fat lika s° sem fier hafit eigi
fordum truat a gud/eñ nu hafi fier miskuñ aud
lazt fyꝛe fra vantruar skulld/s° hafa ꝛ hiner nu
eigi viliat trua a fa miskuñ sem fier hafit hlo-
tid s° at fꝛ męttu ꝛ miskuñsemi audlazt/ fuiat
gud luckti alla vnder vantruñe/vpp a f at hñ mis
kuñadi ollm̄

O hulik dypt audęfaña/będi spekiñar ꝛ s°   Dñica
gudz vidꝛ keñingar/ huersu o vm rędanliger eru   Trinitatis
ꝛ hñs domar ꝛ o fiñaliger hñs veger/ fui hüer he
fer feckt Herrans siñe/eda huer hefer hñs radgia   Esa. xl.
fi verit/edꝛ huer hefer hm̄ nockut fyꝛꝛe gefit/s°
at hm̄ męttí f verda endꝛ golldit/ fuiat af hm̄ ꝛ
fyꝛer hañ/ ꝛ i hm̄ eru aller hluter/hm̄ sie ꝛ heidꝛ ꝛ
dyrd at eilifu amen ✱   xij. Capitule



Yrer fui beidi eg ydꝛ goder bręð-
dꝛ fyꝛer miskuñ gudz / at fier ge-
fit ydra likame til fss offꝛs sem lif-
andi er ꝛ heilagt ꝛ gudi fackněmit
huert at er ydar / skynsamlg gudz



þionustu/ ⁊ hegdit ydr eigi epter þessum heime/ hell dr giorit ydr vm skiptiliga i endr nyung ydvars hugskots/ so at þier meigit reyna huer at sie/ godr þægr/ ⁊ algiordr guds vile/ þuiat eg seigi fyrer þa nad sem mier er gefin/ hueriũ sem einũ ydar a mille/ ꝥ eingiñ halldi meir vt af sier/ eñ hm̃ byriar af sier at hallda/ helldr halldi hñ so vt af sier ꝥ hñ sie kyrrlatr ⁊ sparlifur/ epter þui sem gud hefer huerium hlutad mæling truariñar

Þat lika so sẽ at vier hofũ marga limu a einũ likama/ eñ aller limerner hafa eige lika hegdan/ Lika so eru vier ⁊ marger eirn likami i Christo/ eñ vor a mille eru vier huer añars limr ✱ ⁊ ✠ Hofũ marg hattad˜ giafuer/ epter þre nad sẽ oss er gefin

Hafi nockr spadõ þa sie hñ truañe likr/ hefer nockr embætti/ þa gæti hñ þess embættis/ keñer nockr/ þa vacki hñ þa keñing/ a miñer nockr/ þa hygge hañ at þre a miñing/ gefr nockr/ þa gefe hñ einfallo- liga/ stiornar nockr: þa stiorne hñ med a hyggiu/ fremur ⁊ nockur miskuñsemi þa giore hañ hana med godfyse

Elskan sie flærdar lauß/ ⁊ hatid hid vonda/ eñ lodit a hinu goda/ brodurligr kærleike sie astud- ligr ydar a mille/ hafi huer añañ sier i virdingum fora/ verit ⁊ eige later i þui þier skulut viña/ verit gloandi i andanũ/ hegdit ydr epter tidiñe/ verit gla- der i voniñe/ eñ þoliimodet i kuoliñe/ stadfaster i bæniñe/ añist naud þurfter voladra/ kost gæfit gestrisne/ blezit þa er ydr ofsækia/ blezit eñ bolvit eigi/ fagnit med fagnandũ/ eñ gratid med gratõ dũ/ verit samhuga iñbyrdis/ stundit eigi ꝥ/ huat hatt er/ helldr lutid at þui sẽ lagt er ✱ verit ✠ eigi sialf kloker/ giallldit ongũ illt mote illu/ leggit kapp



Summn da
n næst ep
hiñ rich

✠ Þi añ
an sia
kia dag
epter rich

a at vera sidsamt þ mogligt er vid huern mann/ ⁊ þ þier formeigit þa hafit frid vid alla menn

Hefnit ydar eigi sialfuer (miner elskanliger) helldr gefit rum reidi/ þt skrifat er/ min er hefndin eg vil endr giallda/ seiger Drottinn

Nu ef ouin þinn hungrar þa gef hm̃ fædu / þyrstir hñ gef hm̃ at drecka eñ nær þu giorer þtta þa safnar þu glodum elldz yfuer hofut hiñ/ lat eigi yfuer stiga þig hid vonda/ helldr yfuer viñ þu hid vonda med godu *

(Rum r…
þ er eigi
reidi he…
gudz re…
8o at hñ
fniþt hi…
hefndin…

xiij Capitule



Huer madr/ þa sie/ valldz stiorniñe vnder gefiñ þresé yfuer hm̃ stiornar þt su er eigi nockr valldz stiorn vtan hun sie af gudi/ eñ huar valldz stiornin er / þa er hun af gudi skickut/ ⁊ huer hñ mot stendr valldz stiornina/ sa stendr i moti gudz skickan/ eñ þr sem i moti standa munu yfuer sig taka doms a felli/ þt valldit er eigi godum verckū helldr vondum til skelfingar/ eñ villtu eigi ottazt valldz stiornina/ þa gior huat gott er/ ⁊ muntu lofstir af hñe hafa/ þuiat hun er gudz þienare þier til goda/ eñ ef þu giorir huat vont er mattu ottazt/ þuiat hun ber eigi suerdit forgefins/ þui hun er gudz þienare ⁊ hefningar madr/ at aga þañ sem illt giorir/ huar fyrer/ oss byriar vndergefnū at vera/ eigi alleinazta hirtingariñar vegna/ helldr ⁊ lika eirnen fyrer samuizkuñar saker / þar fyrer hliote þier ⁊ skatt at giallda/ þuiat þr eru gudz þienarar sem slikar verndaner skulu hantiera

Þui gefit þ huerium sem þier plicktuger erut þm skatt sem skattr heyrir þm toll/ er tollr heyrir



þm otta/er otti heyrir/ þm heidr/ſem heidran hey
...dia sunnu rir ✠ verit ongum ſkylldugir/nema þ þier elſkit
g huer añan þui huer hn̄ elſkar ſiñ naunga sa he
fer logmalit vpp fyllt/ þat þ° ſeigizt þu ſkulir ei
Levi.xix gi hor drygia/eigi mañ vega/eigi ſtela/eigi liugvit
ne mæla/þu ſkalt ꝛ eigi girnazt/ ꝛ ef þar er noc
kurt añat bod ord/þa felſt þ i þſſm ordum/elſka
ſkalltu naunga þiñ sem ſialfuañ þig/elſkan gior
ir naunganū ecki mein/ þui er nu elſkan logmal
ſins fylling✱

Og ✠ med þui at vier vitū/einckū þa ſtund/ þ
time er vpp at riſa af ſuefninū/ af þui at vor
...s fyrsta su heill er nu nær/helldr eñ þa vier trudū þ/nottin er
dag i Jo vm lidin/eñ dagriñ teckrat nalgazt leggiū þui af
faustu verckin myrkuaña/ ꝛ i ſkrydunzt herklædū lios
ſinſ/s° at vier gongum ſidſamliga sem a deigi/ei
gi i ofati eda of dryckiu/eigi i legu kofū/ ꝛ mu
nadlife/eigi i þrattan og ofund ſyki/ helldr i klæ
dizt þier Drottni Jeſu Chriſto ꝛ giorit eigi ep
ter holldzinſ brekuiſe þſſ girnder at rækia✱

xiiij Capitule

En hn̄ ſé breyſkr er i truñe þa añizt/ꝛ
ſkelfit ecki ſamuizkurnar þui añar tru
er hn̄ meigi allz neyta/eñ hiñ ſem breyſ
kr er eti hn̄ kal greſi/eñ huer ed eti hn̄
forſmae eigi þn ſem ecke eti/ ꝛ hn̄ ſem
ecki eti/dæmi eigi þañ sem eti/ þuiat gud aña
dizt hn̄/huer ert þu? sem añarligañ þion dæmer
Hn̄ ſtendr eda fellr ſinum lauardi/ eñ hn̄ fær
hn̄ vel vid riett/ þuiat gud er mattugr hn̄ upp at
rietta Añar helldr meir af odrum
deigi / eñ odrum hiñ añar helldr alladaga
iafna/ hueriū einū lati ſier ſitt hugſkot full

nægia

nægia hñ sē af deiginū helldr/giorir þ Drottne/⁊
hiñ sē þar helldr eckit af/hñ giorir þ ⁊ Drottne/⁊
huer ed etr/ sa etr i Drottne/ þat hñ giorir gudi
þacker/⁊ hiñ sē ecki etr hñ etr eigi i Drottne/⁊ gio-
rir gudi þacker/þat eingiñ vor lifuer sialfū sier/⁊
eingen deyr sier sialfū/ þui ef vier lifū þa lifū
vier Drottne/deyiū vier/þa deyiū vier Drottne/⁊
huort vier lifum eda deyium/þa erum vier Drot-
tins/ þuiat þar fyre hefer Kristr dait/vpp aftr
risit ⁊ endrlifnat/ þ hñ sie Drottiñ yfuer lifuen-
dum ⁊ daudum

Eñ þu/huad dæmir þu brodr þiñ/eda þu hiñ
añar huat fyrer forsmar þu þiñ broder/þui vier
munū aller standa fyrer Kristz domstoli epter
þui sem skrifat er/s° sañeliga sem eg lifue seiger
Drottiñ skulu mier oll kne beygiazt/⁊ allar tungr
skulu gud vidrkeña/þa mun ⁊ huer sē eiñ fyre si-
alfuan sig giallda gudi reikning skap/fyrer þui
latū oss nu eigi meir dæma huer vm añañ hiedan i

Helldr dæmit myckłu framar vm þ at (fra
brodrnū leggizt eigi til nockr hindran edr hrasanar
efne/eg veit þ/⁊ em þess fullviss i drottne Jesu/at
þ er eckert almeñeligt i sialfū sier/nema þm sē þ
reiknar fyrer almēt/hm̄ er þ almeñiligt/nu ef bro
dir þiñ sturlazt vpp fyre þiñar fædu saker/ þa
geingr þu þegar eigi epter kærleikanū/ miñ kærl
(fordtar þa eigi þn mz þinum mat fyrer huern
krist er daiñ/fyrer þui kostid kapp vm at yduar
audr verdi eigi lastadr/ þat gudz rike er ecki matr
⁊ dryckr/helldr riettlæti fridr ⁊ fognudr i heilogū
anda/huer hñ þionar Kriste þar med/sa er gu-
di þeckr ⁊ mōm gedfelldr

Fyrer þui latū oss þui epter fylgia sem til fri-

darins

(almeñilig
þ er svo
kit saur
eda oklar
s° sē þ ed
gi er vigt
nie helgat

(yd audi
Euāgeliū
vor audr
þ at þui v
drlastan
logd vall
þr sē kris
ligt frelsi
tiera herf
liga ⁊o vis
ga/hinū br
yfk trauð
til hindru
nar.

darins hefrir ꝛ varduettum ꝥ [illegible] til betrunar er vor a medal/ fordiarfa þu eigi gudz verck fyre matarins saker aller hluter eru at sonu hreiner/ eñ ꝥ er þm̃ eigi gott sem ꝥ etr med gnagan siñar sam vitzku/ myckllu betra er at þu etir ecki kiot ꝛ drecktr ecki vin/ eda ꝥ neckut/ sẽ þiñ broder tekr sig a/ eda argizt af/ eda veykizt vid/ hafer þu truna/ þa haf hana hia sialfum þier fyrer gudi/ sęll er sa sem onga samuitzku giorir sialfum siet i þui hñ neyter/ eñ hñ sem efa blandiñ er/ ꝛ etr som adr sa er for dęmdr/ þuiat ꝥ skier ecki af tru/ eñ huat ecki er vt af truñe ꝥ er synd

xv Capitale

En vier sem styrkuer erũ skulũ vmlida van męttingar þra sem breystliger eru ꝛ hafa eigi gedþeckne a sialfum oss/ ꝛ huer sem eiñ vorra/ hegdi sier s° ꝥ hñ þocknizt sinum naunga/ i godu/
Psal. lxviij til betrunar/ þuiat Kristr hafdi ecki gedþeckne a sialfum sier/ helldr epter þui sẽ skrifat er/ at þęr
Añañ su- smaner sẽ þig lytta/ fiellu yfuer mig ✠ Eñ huat
nudag i Jo- sem skrifat er/ þa er ꝥ skrifat oss til lęrdoms/ s°
af°. at vier fyre þolinmędi ꝛ huggan ritningaña / hefdum vonina eñ gud þolinmędiñar/ ꝛ huggunariñ gefi ydr ꝥ/ at þier sieut samlynder ydar a mille epter Jesu Kristo/ s° at þier męttud med einu sam helldr ꝛ einũ muñe dyrka gud ꝛ faudr vors Drottins Jesu Kristi / þar fyre añizt huer añañ iñbyrdis/ lika sem Kristr añadizt ydr gudi til heidrs

Eg seigi Kristum verit hafa/ þionarstu mañ vm skurnariñar/ fyre gudz sañleika saker til stad festu fyrer heitaña sem til fedraña eru skied/ eñ

þat

þat heidiñ lydr heidrar gud er fyre miſkañ ſem
dina vordit/epter þui ſem ſkrifat er/ fyre þ vil
eg Drottiñ vegſama þig/medal heidiña þioda/ ⁊ Pſal. xvii
þinu nafne ſyngia lof/ ⁊ i añat ſiñ/ſeiger hñ fag Deut. xxx
ne þier/ Heidingiar medr hans folki / og eñ Pſal. xvii
aptr/ lofi þier Drottiñ allar þioder/ ⁊ myckli hñ Eſa.xi
allr lydr/ ⁊ eñ aptur ſeiger Yſaias/ þ mun ſkie at
rot Jeſſe / ⁊ hñ ſem vppriſ til at ſtiorna heidnū
þiodū þ a hñ mune heidner meñ vona/eñ Gud
vonariñar fylli ydr med ollum fagnadi ⁊ fridi i
truñe/ſo at þier hafid gnægd i voniñe fyre krapt
heilagr anda

Eñ eg em fulluiſi þui brædr miner/ þ þier ſial
fuer erut fuller god girne/vppfylldir allrar viz
ku/ſo at þier getid leidriett huer fyrer odrū/ ⁊ fyr
refa ſauk/ſkrifadi eg brædr miner þſſ diarflig
til ydar ſo ſem ydr amiñandi/af alfu þrar na
dar ſem mier er af gudi gefin/ þ eg ſkuli vera
kriſtz þienare/medal Heidiña þioda/ fornfæran
di gudz Euangeliū/ſvo at Heidiñ lydr yrdi gudi
þægiligt offur/helgat fyrer hñs heilagañ anda/
þadan hefi eg þ /huar af eg ma hroſa mier i Kri
ſto Jeſu/J þui ſem gudi til heyrir/þat eg dirf
dizt eigi nockut at tala af þſſu/ef kriſtr efldi ecki
þ ſama fyrer mig/at koma Heidiñe þiod til hly
dniñar/ fyre ord ⁊ giorder/fyrer krapt takñaña ⁊
ſtormerckiaña/ ⁊ fyre matt gudz anda/ So at eg
hefi i fra Hieruſalem/ ⁊ þar vm kring liggiandi
lond/allt til Jlliricon/ vppfyllt med kriſtz gudz
ſpia le/ ⁊ ſierdeiliſ lagt kapp a at predika gudz E
uangeliū þar/ huar nafn kriſtz var eigi kuñigt/
ſvo at eg byggia eigi vppa añarligañ grunduoll/
Helldr epter þui ſem ſkrifat er/at þ m ſem ecki er Eſa.lii

af

af hm̄ bodat/ þr skulu ꝥ sia/ ⁊ hiner er ꝥ hafa ei-
gi heyrt/ þr skulu ꝥ skilia

Þat er ⁊ til efnit/ huert mier hefer opt sinis talmat
til ydᵛ at koma/ ⁊ fyrst eg hefi nu eigi rum meir
i þessū lǫdū/ eñ eg hefi þo haft lysting a vm morg
ar at koma til ydar/ eñ þa eg reise i Spaniam mū
eg koma til ydar/ þuiat eg vǫnti at eg mune þar
vm fara ⁊ sia ydr þar/ ⁊ af ydr vt þadan a veg
leiddr verda/ þo s° at eg taki adr huild hia ydr vm
stundar saker

Eñ nu reise eg til Hierusalem/ þm̄ heilogū til
þionustu er þar eru/ þui þr af Macedonia ⁊ A-
chaia/ hafa vilianlıga til samans lagt nockra
almeñeliga lifs nǫring/ þm voludū heilogum til
Biargar sem eru i Hierusalem/ ꝥ hafa þr vili-
anliga giort/ þr eru ⁊ þra skullda meñ/ þui fyrst
hiner Heidnu eru hlutakarᵛ vordner/ þra andli-
gra aud ǫfa/ þa vǫri skapfelligt at þr syndi þm̄
biorg/ i likamligū audǫfum/ Eñ nǫr eg hefi þtta
fullkōnat ⁊ insiglat þm̄ þñ auogrt/ mun eg fer-
daꝫt fyrer ydr i Spaniam/ Eñ eg veit nǫr eg
kem til ydar/ ꝥ eg mun koma med blezanar fyl-
ling Kristꝫ gudꝫspialla

Eñ eg beidi ydr brǫdr miner/ fyre vorn drot-
tiñ Jesum Kristꝫ/ ⁊ fyrer andarins kǫrleika/ at
þier hialpit til i ydrum bǫnū fyrer mier til gudꝫ/
svo at eg frelsizt fra þm̄ vantruudū/ sem a Gy-
dinga landi eru/ ⁊ ꝥ min þionusta sem eg giori til
Hierusalem/ verdi þm̄ heilogū þacknǫm/ svo at
eg mǫtta fyre gudꝫ vilia til ydar koma i fa[illegible]-
di/ at eg endr nǫrda mig med ydr eñ gud fri[illegible]-
ins sie med ollm̄ ydr Amen.

Wera

## Sextandi Capitule



Ora ſyſtr Pheben fel eg ydr a hendi/ huer at er þionuſtu kuiña ſafnadar‑ ins til Kenchrea/ þ þier med takit hã na i drottne/ s° ſem heilogũ hæfer/ ⁊ giorit hñe hia ſtod i huerri naud þurft ſem hun kañ ydar vid at þurfa/ þat hun hefer morgum hia ſtod/ giort/ ⁊ mier ſialf‑/ Heilſit Priſ cam ⁊ Aquilan minũ hialpar mõm i Chriſto Jeſu þr ed ſina halſa hafa vt ſett fyrer mitt lif/ Hue‑ riũ ecki alleinazta eg giori þacker/ helldr aller ſof‑ nudir Heidiñar þiodar/ ⁊ heilſit þm̃ ſafnadi ſem i þra hũſe er/ Heilſit Epheneto minũ elſkanligũ/ sa sem at fyrſtr er fra vr Achaia i Chriſto/ Heil ſit Mariam/ huer mikit erfidi hefer haft med oſſ Hellſit Andronico ⁊ Julion/ minũ nafrændum ⁊ ſãbandingiũ/ huerier at fræger eru a medal poſtu laña/ ⁊ fyrr mier voru i Kriſtu Jeſũ/ Heilſit Am‑ plian minũ elſkuligazta i Drottne/ Heilſit Vrbano vorũ hialpar mañe i Kriſto Jeſu ⁊ Stachyn mi‑ nũ elſkuligũ/ Heilſit hinũ mæta Apellen/ i Kriſto/ Heilſit þm sem eru af heimkyñũ Ariſtoboli/ Heil ſit ⁊ minũ frænda Herodionẽ/ Heilſit ⁊ þm̃ sẽ eru af heimkyñe Narciſſi i drottne/ Heilſit Triphena ⁊ hinũ Tripheſa/ huerier erfuidat hafa i drottne Heilſit Perſida miñe elſkuligre/ huer at mikit erf uide hefer haft i drottne/ Heilſit Rufo hinũ vtual‑ da i drottne ⁊ hñs modr ⁊ miñe/ Heilſit Aſyncriton Phlegontẽ/ Herman/ Patroban/ Hermen/ ⁊ þm̃ bræ drũ ſem hia þm̃ eru/ Heilſit Philologen ⁊ Julian/ Nereũ ⁊ ſyſtr hñs/ ⁊ Olimpan ⁊ ollũ heilogũ sẽ hia þm̃ eru/ Heilſit huer odrũ ydar a mille mz heilogũ koſſi ydr heilſa aller kriſtz ſofnuder

Eñ eg miñe ydr a godu brædr at þier hafit gaat

a þm sem rugl ⁊ hindraner vpp byria i giegn þ m
lærdome sem þier hafit lært/ ⁊ snuit fra þm so-
mu̅ þat þss hattar men̄ þiona eigi Drottne Je-
su Christo/ Helldr sinu̅ kuidi/ ⁊ fyrer sætlig ord ⁊
fagrligt maltæki/ tæla þr hiortu meinlausra/ þui-
at ydvar hlydni er i bland alla vt komin/ fyrer þ
fagna eg yfuer ydr/ En̄ eg vil at þier sieut vitrir
vpp a hid goda ⁊ litil sin̄ader vpp a hid vonda/
En̄ gud fridarins mun in̄an̄ skamzt sundrmista
þan̄ andskota vnder ydra fætr/ Nad Drottins
vors Jesu Christi sie med ydr

Ydr heilsar Thimoteus min̄ hialpar man̄/ ⁊
Lucius/ ⁊ Jason/ ⁊ Sosipater miner na frændr/
Og eg Tertiꝰ sem þetta bref skrifadi/ heilsar ydr i
Drottne/ ydr heilsar Gaius min̄ ⁊ allz safnadar-
ins husbondi/ ydr heilsar Erastus borgarin̄ar fi-
ar rentu vordr/ ⁊ Quartus broder/ Nad Drottins
vors Jesu Christi sie med ydr ollm̄ Amen

En̄ hm̄/ sem mattugr er ydr at styrkia epter
mino gudzspialle ⁊ predikan vt af Jesu Christo/
fyre hueria leyndr domrin̄ er vpp birtr sem i lan
ga tima hefer yfuer verit þagat/ en̄ nu opinbera
dr ⁊ auglystr fyre ritningar spamn̄an̄a epter bodi
eilifligs gudz/ truarin̄ar hlydni til vpprei-
singar medal allra Heidin̄a þioda/ þm
sialfu̅ gudi sem alleina er vitr/
sie dyrd fyrer Jesu̅ Christ
at eilifu Amen/

¶ Til Romueria sem sendr var af Corinthio fy-
rer Pheben sem þionustu kuin̄a var safnadarins
til Kenchrea

J þssm

# Formale hins fyrsta pistill
## til Corinthios



þſſm pistle aminñer hiñ heilagi Pall
þa i Corinthiu Borg/ þ þr skulu
samlynder vera i truñe ꝛ i lærdomi
nū/hafandi vackt a þui at þr lær
du vel þſſa hofut grein/ einckum/
(þ kristr sie allra vorþrif giof) a
hueria grein allar mañligar skynsemder ꝛ visdom
at hafa sig a rekit/ þt lika sē nu vpphefia sig vm
vora daga/ ifra þui ed Euangeliū kom i auglios
marger fauiser sialfbirgingar (þa vier kollum
flugu anda sugl ꝛ fordæda) huerier allt forsne
m̄a eda kloket ꝛ lærder vorder ꝛ eigi fa fyrer my
cklū meistaraskap ꝛ visdome halldit sig lika vid
nockrn edr sālynda þui þañ eine vill hingat/hiñ añ
ar þangat/ s° sem at væri þ stor sman/ nær ed
huer eiñ skylldi eigi neckut sier ligt fyrer sig leggia
ꝛ sinū eigenligum visdome vpp fleygia/ hueria
eingeñ fær vm uent aptur til sins vitzkuleysis/ eñ
þo vita þr i þelit nidre allz ecki nie vnder standa
vt af hinū riettu hofut greinū/ þott þr rause/gial
fre ꝛ þuætti margt vm þtta m3 muñinū

Lika s° stiedi a dogum hins heilaga Pals /
þa er hñ hafdi kent sinū astuinū i Corinthiu krist
eliga tru ꝛ frelsit af logmalinu/at þa hofu sig
ꝛ vpp hiner fauisu sialfbirgingar ꝛ o tidi ger vi
tringar i sundrslitandi þañ samlyndadañ lærdom
giorandi s° sundr þ ydañ flecka draatt medal trua
dura maña/þañ eine hñ vildi vera Pals/hiñ añar
appollinis/þañ eine Petrs/eñ añar Kristz/eiñ vill
de vmskerazt lata/eñ añar ecki þañ eine villdi gip
tazt hiñ añar ecke/ þañ eine villde eta skurgoda
forner eñ añar ecki/sumer villdu ꝛ vera likam liga

frialser/ ⁊ nockrar konr villdu i harklædū ganga/ ⁊ slíkt ānat ꝥssu líkt/ þar til at þr komu s° fiarre nidr ꝥ einn drygdi suiuirdeligann misuerknad i moti frelsino takandi sina stiupmodr til eigen ordz/ Og ꝥ sumer hielldu allz ecki vt af vpprisunne daudra manna/ enn adrer nærsta litid af hollotekiu drottins/ ⁊ ꝥ gieck miog vndarliga ⁊ nærsta o skickanliga til s° at huer einn villdi meistare vera ⁊ kenningar drygia/ ⁊ ꝥ eina giora med gudzspiollin Sacramētis truna huat þm gott þotti/ ⁊ lietu a medan ꝥssa hofut grein fara/ ⁊ vnder fotū liggia/ (ꝥ Kristr sie vor þrif giof/ riettlæti/ ⁊ endrlausn) lika s° sem hefdi þr ꝥssa grein fyrre longu mz solū sinna skofata forslitid/ af þui at suoddant stycki fær ecki a flotnū blifit/ huar vier sialfuer vpphefiū kloker ⁊ vitrer at þickiazt/ Aullu deile eins lika s° sem ꝥ geingr nu til medr oss/ sidan vier opinberudū i þydueskunne (seiger meistarinn) þetta Euangeliū vt af gudligre nad/ at þar vill huer einn hinn ædzti meistare vera ⁊ hafa hinn heilaga anda alleina/ Lika sem væri Euangeliū fyrre þann skullo predikat/ ꝥ vier skylldū leita vorrar hrosanar audsynandi vorn klokleik ⁊ skynsemd þar inne/ s° at ꝥsser Corinthiu borgar menn mega vel vera ein fyreliking vorrar þiodar a ꝥssum timū/ huer ed þaurf hefdi eins þuiliks pistils/ Enn s° hlytr ꝥ at vera ⁊ s° a ꝥ gudzspiollunū at ganga/ ꝥ hiner heimsku sialfbirgingar ⁊ o tidugar vitringar eigu vpp at byria flockadratt ⁊ hindraner/ s° at þr sē reynder eru (epter þui at hier seiger hinn heilage Pall) opinberir.

Fyrer þui straffar ⁊ fordæmer hinn hei (verdilagi Pall slikan skadsamligann viss dō nærsta aluarliga/ ⁊ giorir þuilika heilaga nef vitringa aptr at vitleysingū ⁊ seiger mz sliettū ordū/ at þr vite ecki

ert af Kriſte nie af hn̄s anda ꝛ aſtgiofū þꝗr oſſ
eru i Kriſto Jeſu veittar ꝛ eigi ſkulu þer keñingar
vpp byria/ þui þz hliota andliger at vera ſē þ ſku
lu vnderſtāda/ eñ vilia vitz vera ꝛ klokleik ſyna me
dz Euāgelio/ er ein riett hindzan ꝛ hālan/ gud ꝛ kri
ſtū at vidz keña/ eñ flecka dratt ꝛ ſundz þycki vpp
at byria þᵘ er klokligſkynſēd ꝛ viſdomz vel til hꝗ
filigz/ ſo at þz verdi at eins heimſker ſialf birgin
gᵘ ꝛ kriſtner villingar/ Eñ drottiñ vozn Jeſū Kri
ſtū fa þz alldzeigi riettliga vidz kent nema þz ſnu
iz aptz i hid forna vitzku leyſe ꝛ lati ſig ſo litelat
ligaña fꝗra ꝛ lꝗra fyrer þ hoguera ꝛ ein falliga
gudz ord/ ſlickt giozir hn̄ ꝛ vm hond hefz i hinum
fyrſtum fiorū capitulum.

J hinū fimta ſtraffᵘ hn̄ þa myckla vanſemd
þ ſſ hins ſama ſē ſina ſtiup moder hafdi til eig
nar tekit ꝛ vill bañfꝗra hn̄ ꝛ dioflinū gefa/ gefān
di þar inz at ſkilia eina rietta vnder viſan/ huernē
bañit ꝗtte at henticrazt/ ſo at þ ſkuli ſkie medz ei
nu sā þycki allz safnadarins / þra ſē riettruader
eru/ yfuer opinberū ſtorſyndū/ ſo ſē at kriſtz keñ
er ꝛ ſialfz Matth xviii

J ſietta ſtraffar hn̄ þagg ꝛ þrꝗtu mal fyrer
dōſtolū ſierdeilis fyre heidnū mōm ꝛ rāñuudū ꝛ
keñer at þr ſkuli ſialfuer iñ byrdis ſakernar/ ſkilia
ꝛ ſliettar giora elligar rāginde lida

J hinū ſiounda vnder viſar hn̄ af hreinlifino
ꝛ hiuſkaparbādino lofar faſt hreinlifit ꝛ iungf
frudōeñ þ hn̄ ſie nytſāligz ſo þui framar ꝛ be
tr geti hn̄ gudzſpiallaña gꝗtt/ ſo ſē at ſialfz kriſtr
keñer Matth xix af þm hreinlifis mōm ſē vegna
gudzſpiallaña edz himarikis vilia hreinlifer ve
ra/ Eñ Pall vill o naudugañ ꝛ o þuingadañ
Jungfrudom halldiñ hafa vtan allz haſka mei

